Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON*.

8. árg. WINNIPEG, MAÍ OG JÚNÍ 1893. Nr. 3. og 4.

## *HVÍTASUNNUSÁLMUR.*

Eptir *Boye*,
þýddur handa „Sam." af síra *Valdimar Briem*.

Nú heldur jörðin hátíð glöð
á hvítasunnudegi.
Nú er sem vorsins blóm og blöð
frá blessun drottins segi.
Og hátíðin nú hringd er inn,
er hægur vindur ómar.
Guðs anda blær nú lífið ljær.
Hann lofi þúsund rómar.

Og sjálfur held jeg hátíð með
á hvítasunnudegi.
Mig, kæri himingestur, gleð,
svo guð jeg lofa megi.
Með skrúðið grænt nú vorið vænt
á veg minn pálma breiðir.
Með gleðihljóm í helgidóm
mig herrann sjálfur leiðir.

Nú fagurt syngur fugla hjörð,
þeir frá guðs miskunn segja.
Þá andinn svífur yfir jörð,
mun eg þá mega þegja?
Um lausnarann, sem lífgar mann,
er ljúft til máls að taka.
Um ljóssins spor, um lífsins vor
þeir litlu fuglar kvaka.

Í þröngum reifum byrgt var blað
í blundi dauðans þrungið.
Í vatnslind skírnar skírt var það,
þá skjótt það út var sprungið.
Guðs dýrðarskraut í skírn jeg hlaut,
mig skrýðir þú, guðs andi.
Ó, gef að nú mín grói trú
með grösum alskínandi.

Jeg sje, að aptur upprisinn
er allur jarðargróður;
svo endurfæðir fjöldann þinn
þú, frelsari minn góður.
Að deyja fyrst, svo frjóvgaðist,
hlaut frækorn smátt í beði
Guðs andi, hjer svo hjálpa mjer,
að heims jeg deyði gleði.

Jeg laufsal byggja vonar vil
úr vorsins blómum smáum,
í skúr og hita, skýlis til,
í skugga hvílt að fáum.
Um drottinst ást, sem engum brást,
um eilífð milda' og ljúfa,
um sælu þá guðs syni hjá
mjer syngur himins dúfa.

## *KIRKJURÆKNI.*

það hefur nýlega verið varpað næsta þungum steini á hina kirkjulegu starfsemi vora hjer vestur frá, og vjer getum ekki leitt hjá oss, að fara fáum orðum um það efni, án þess þó að ætla oss að leggja út í nokkra ritdeilu. En af því að steinninn hefur í þetta sinn ekki komið úr garði ákveðinna óvina kirkjunnar, heldur úr garði þeirra manna, sem nær þykjast standa kristindóminum og þess vegna álíta sig færa um að fella óvilhallan dóm, viljum vjer eitt sinn fyrir öll bera hönd fyrir höfuð vort og safnaða vorra gegn slíkum dómum.

það eru til þeir menn meðal vor, sem hvergi þykjast eiga heima í flokkum þeim, sem hjer hafa myndazt. Ýmsir þeirra hafa að vissu leyti borið hlýjan hug til kristindómsins, þegar þeir komu hingað, og hafa því engan veginn viljað fylla flokk ákveðinna óvina kirkjunnar. En svo hafa þeir misskilið hina kirkjulegu starfsemi innan safnaðanna, misskilið mennina, sem þar hafa verið fyrir framan, í langflestum tilfellum vegna þess að hjarta þeirra hefur verið fullt af misskildum kristindómi og hugsunarháttur þeirra rígbundinn við ríkiskirkjufyrirkomulagið gamla. þeir hafa því ekki fengizt til að ganga inn í neinn söfnuð; þeim hefur fundizt safnaðarlífið svo ljótt, að þeir væru of góðir til að vera þar með. Hið góða, sem söfnuðirnir hafa verið að berjast fyrir, hafa þeir sjaldan getað litið rjettum augum. Í hvert skipti, sem þeir hafa verið við guðsþjónustur safnaðanna, hafa þeir haft nógar aðfinningar á reiðum höndum. Annaðhvort hefur söngurinn ekki verið að þeirra skapi, eða þeir hafa ekki getað haft not af ræðunni, sökum þess, að presturinn tónaði ekki á undan og eptir, eða var ekki klæddur messuskrúða, eða lagði ekki út af guðspjalli dagsins, heldur hafði eitthvert annað guðs orð fyrir texta, eða fylgdi ekki þeim kirkjulegu serimoníum nákvæmlega, sem tíðkuðust á Íslandi. Í stað þess að láta það guðs orð, sem haft hefur verið um hönd, verða sálu sinni til uppbyggingar, hefur hjarta þessara manna verið fullt af smáhneykslunum, þegar þeir hafa farið heim til sín frá kirkjunni.

Eins hafa þessir menn talað og dæmt um það, sem opinberlega hefur verið ritað um málefni kirkjunnar meðal vor. þegar

fundið hefur verið að því kirkjulega ástandi, er vjer höfum tekið í arf, og bent hefur verið á, að það þyrfti að breytast á ýmsan hátt, hafa þessir menn verið fljótir til að skoða þessar aðfinningar og bendingar sem andlegan hroka. Af því að þeir eru komnir út úr þjóðkirkju fósturjarðar sinnar, álíta þeir, að allt sje bezt eins og það á sjer stað þar. Ef þeir hefðu verið kyrrir heima á fósturjörðu sinni, mundu þeir að líkindum hafa fyllt flokk þeirra, er myrkast líta á kirkjulega ástandið þar. En af því að þeir eru nú hingað komnir, hlýtur þessi myrka skoðun þeirra á kristindómsástandinu og hinir hörðu dómar, sem hún fæðir af sjer, að koma niður á þeirri kirkjulegu starfsemi, er þeir hjer verða varir við. Misskilningur á kristindóminum, myrk og órjettlát skoðun á mönnunum og lífinu, meðfæddur skortur á fjelagslyndi banna þessum mönnum að rækja þá skyldu sína, að gjörast starfandi meðlimir einhvers safnaðar. Svo standa þeir fyrir utan með hendurnar í vösunum og dómana á vörunum og þykjast geyma miklu sannari og göfugri kristindóm í hjarta sínu en þann, er þeir sjá í kring um sig. Móti vilja sínum og vitund fylla þessir menn óbeinlínis andstæðinga flokk kirkjunnar og kristindómsins. Þeir eru ef til vill ekki sjerlega margir, og vjer höfum ástæðu til að ætla, að þeim sje heldur að fækka, sem þannig hugsa og tala meðal vor, en það eldir þó nokkuð eptir af þessum hugsunarhætti hjer og þar, og smám saman logar hann upp úr og kemur þá fram sem sendibrjef til einhvers vinar á Íslandi, er brjefritarinn setur sjer fyrir að opinbera hið óttalega ástand, sem hjer sje í kirkjulegu tilliti.

Vjer höfum eiginlega ekki sett oss út til að gylla það ástand svo sjerlega mikið. Oss hefur einmitt verið borið á brýn úr öðrum áttum, að vjer gjörðum oss seka í hinu gagnstæða. Hið litla blað vort hefur ekki legið á liði sínu með að benda á hætturnar, er hjer umkringja fólk vort á allar hliðar í kristindómslegu tilliti. Með sterkum og einbeittum orðum hefur það dregið fram hið marga og mikla, er enn stendur safnaðarstarfsemi vorri í vegi og gjörir það að verkum, að hið kristilega líf stendur enn á lágu stigi meðal vor. Og svo má að orði komast, sem hver ræða, er haldin er í kirkjunum, bendi á þetta og brýni það fyrir samvizkum manna. Svo það er naumast unnt að bera

oss það á brýn með sönnu, að vjer gjörum oss í hugarlund, að safnaðarlífið hafi náð tilætlaðri fullkomnun.

Ýmsir vinir vorir finna að því við oss, að vjer leggjum of mikla áherzlu á hina dæmandi hlið kristindómsins, — lögmálshliðina. Fúslega viðurkennum vjer, að það er vandasamt verk, að tala svo um lögmál og evangelíum fyrir söfnuðinum, að hlutfallið sje hið rjetta. En samvizka vor segir oss, að vjer leggjum aðaláherzluna einmitt á náðarboðskap kristindómsins, — hjálpræðið, sem syndaranum er tilbúið af lausnara vorum Jesú Kristi. Samt sem áður könnumst vjer fyllilega við það, að vjer viljum leggja sterka áherzlu á lögmálshliðina, því vjer vitum, að það hefur ætíð verið gjört á endurvakningartímabilum kirkjunnar og er hinn eini vegur til að skapa nýtt, heilbrigt trúarlíf. — En eitt er víst, og það er þetta: Enginn prjedikari, sem ánægður er með lífið, eins og það birtist honum í söfnuðinum, hagar prjedikun sinni þannig. Sú prjedikun, sem flutt er í söfnuðum vorum, slær þess vegna þá sakargipt á munninn, er segir, að vjer ímyndum oss safnaðarlífið svo sjerlega glæsilegt eða fullkomið.

Samt sem áður væri það vanþakklæti við drottinn, ef vjer eigi vildum við það kannast, að prjedikun guðs orðs í söfnuðunum hefur mjög miklu til leiðar komið, þrátt fyrir öll þau skaðvænlegu öfl, sem á móti hafa strítt.

Kirkjuræknin í kristnum söfnuðum er þá fyrst í rjettu lagi, er sjerhvert húsfjelag innan safnaðarins sækir guðs hús á hverjum helgum degi, þegar guðsþjónusta er flutt og sjúkdómar eða aðrar óhjákvæmilegar hindranir banna það ekki. Svona mikil kirkjurækni á sjer þó naumast stað í nokkrum kristnum söfnuði. Og það er langt frá því, að vjer ímyndum oss að kirkjuræknin innan safnaða vorra sje nokkuð svipuð þessu. Þvert á móti finnum vjer sárlega til þess, að hún er miklu lakari en hún ætti að vera.

Og þar sem vjer erum um þetta atriði að tala, viljum vjer ekki láta tækifærið hjá líða svo, að blað vort færi ekki lesendum sínum innilega áminningu um, að vanrækja ekki þá helgu skyldu að sækja guðshús eins opt og þeim er framast unnt. Þar sem kirkjuræknin er í bærilegu lagi, hefur hver familía sitt vanasæti í kirkjunni og hefur það ætíð hugfast, að það sæti standi

ekki autt, heldur sje vel skipað við guðsþjónusturnar. Þannig ætti það einnig að vera vor á meðal.

En víst er um það, að eitt af því, sem vjer íslenzku prestarnir hjer fyrir vestan höfum ástæðu til að vera drottni stórlega þakklátir fyrir, er það, að utan um prjedikun guðs orðs safnast tiltölulega svo margt fólk á meðal vor. Það er sannfæring vor, að naumast sje unnt að benda á meiri kirkjurækni nokkurs staðar meðal þjóðar vorrar en þá, sem á sjer stað meðal safnaða kirkjufjelagsins. Vjer segjum ekki þetta sjálfum oss til hróss eða til þess að stæra oss frammi fyrir öðrum. Það er fjarri því. En vjer tökum það fram, til þess að fjarlægir bræður vorir skuli ekki fá þá fölsku ímyndun, að það guðs orð, sem flutt er í söfnuðum vorum, sje svo afllaust, að það dragi ekki fólkið til kirknanna.

Þessu til sönnunar viljum vjer benda á fáein atriði, en vjer tökum það aptur fram, — það er ekki gjört með neinu stærilæti, heldur að eins til að gefa guði dýrðina, og til þess að það mætti verða öðrum til upphvatningar.

Að svo miklu leyti, sem oss er kunnugt, er til einungis ein kirkja meðal Íslendinga, þar sem prjedikað er tvisvar á hverjum sunnudegi, og það er kirkja Winnipeg-safnaðar. Sá, sem þjónað hefur þeim söfnuði, þangað til hann mátti ekki lengur, sökum hins langvinna sjúkdóms síns, hefur um býsna mörg undanfarin ár á hverjum sunnudegi, árið um kring, flutt eina hádegisguðsþjónustu á vanalegum tíma og aðra kveldguðsþjónustu kl. 7 e. h. Þennan tíma allan hefur kirkjuræknin stöðugt færzt í vöxt í söfnuðinum, og álítum vjer ekki fjarri sanni að ætla, að 800–1000 manns hafi flesta sunnudaga verið í kirkju hin síðari árin. Við kvöldguðsþjónusturnar hefur kirkjan vanalega verið troðfull af fólki og rúmar hún, eins og kunnugt er, nálægt 900 manns. Við hádegisguðsþjónusturnar hefur fólkið verið miklu færra, af því að söfnuðurinn hefur ósjálfrátt tekið upp þann óheppilega sið eptir innlendu söfnuðunum í bænum að sækja kirkju sína helzt að kveldi dags. Auðvitað vantar nú þetta á kirkjurækni Winnipeg-safnaðar, að kirkjan sje jafnfull af fólki við hádegisguðsþjónusturnar eins og við kvöldmessurnar. Það er takmarkið, sem söfnuðurinn þarf að setja sjer að ná og hefur opt verið áminntur um, enda hefur töluvert þokazt í þá áttina.

Er nú nokkur önnur íslenzk kirkja til, þar sem stöðugt er prjedikað tvisvar á hverjum sunnudegi? Nei, ekki einu sinni dómkirkjan í höfuðstað Íslands. Þar er fullt af guðfræðingum, prestum, prestaskólakennurum og kandídötum. En þar er aldrei flutt nema ein guðsþjónusta nokkurn helgan dag. Hvers vegna? Kirkuræknin hefur að líkindum aldrei verið svo mikil, að mönnum hafi fundizt ástæða til þess. Er nokkur íslenzk kirkja til önnur en kirkja Winnipeg-safnaðar, þar sem 800 til 1000 manns taka þátt í guðsþjónustunni á hverjum sunnudegi? Ekki svo vjer vitum. Ekki einu sinni í höfuðborg Íslands.

Þá mætti ekki síður benda á hin önnur prestaköll kirkjufjelagsins. Presturinn í Argyle þjónar einni kirkju og flytur þar guðsþjónustu eitt sinn hvern helgan dag. Ef hann gæti stöðugt sinnt söfnuðum sínum og þyrfti ekki að hjálpa öðrum prestlausum söfnuðum, mundu þar vera fluttar einar 60 guðsþjónustur á hverju ári, eða jafnmargar og fluttar eru í dómkirkjunni í Reykjavík. Og þessar guðsþjónustur hafa að öllum jafnaði verið allvel sóttar. Það er ætlun vor, að hvergi sje unnt að benda á íslenzka kirkju úti á landsbyggðinni þar sem jafnmargar guðsþjónustur eru fluttar og þar sem sama fólkið sækir kirkju jafnopt og söfnuðurnir í Argyle sækja kirkju sína.

Þau sjö ár, sem söfnuðirnir í Dakota hafa haft reglulega prestsþjónustu, hafa hjer um bil 90 guðsþjónustur verið fluttar á ári, og allar þessar guðsþjónustur hafa verið fremur vel sóttar, þótt auðvitað hafi stöku sinnum verið fátt fólk í hörðustu veðrum að vetrarlagi. Söfnuðirnir eru þar margir og guðsþjónusturnar þess vegna ekki eins tíðar á hverjum stað. En við flestar þessar guðsþjónustur hefur allmargt fólk verið saman komið, miklu fleira en tíðkaðist í þeim sveitum, er vjer þekktum til í heima á Íslandi, og er þó kirkjuræknin óvíða betri á landinu.

Í Minnesota eru 4 söfnuðir. Vjer vitum ekki með vissu, hvað margar guðsþjónustur presturinn þar flytur á hverju ári. En eptir því sem vjer þekkjum til, ímyndum vjer oss, að þær muni vera nálægt 80. Og þær munu álíka vel sóttar í hlutfalli við fólksfjöldann eins og gjörist annars staðar í söfnuðum vorum.

Samkvæmt skýrslum, sem biskup Íslands birti í Kirkjublaðinu árið sem leið, hefur „meðaltal messna í hverju presta-

kalli í öllu landinu árin 1890—91 verið 33 og 35". Með öðrum orðum: Hver prestur í landinu hefur að meðaltali flutt annað árið 33 og hitt 35 messur. Samkvæmt því, sem tíðkast hefur í íslenzku kirkjunni, eru hjer um bil 60 messudagar á hverju ári. Að meðaltali hefur þá helmingurinn af þessum messudögum fallið burt, án þess nokkur guðsþjónusta væri flutt. Messuföllin eru nærri því eins mörg og messurnar sjálfar.

Ef sú áætlun, sem gjörð er hjer að ofan, er rjett, — og vjer erum sannfærðir um, að hún er ekki langt frá hinu rjetta, flytja íslenzku prestarnir hjer í Ameríku að meðaltali 85 guðsþjónustur á ári. Eða með öðrum orðum: Auk þess að prjedika eitt sinn hvern helgan dag, flytja þeir tvær guðsþjónustur helming allra messudaga ársins. Og vjer þorum að fullyrða, að þessar guðsþjónustur eru að meðaltali töluvert betur sóttar en nú tíðkast almennt á Íslandi. Þegar vjer erum með rökum sannfærðir um hið gagnstæða, skulum vjer fúslega leiðrjetta þessa staðhæfing vora.

Bendir nú þetta til þess, að kirkjurækninni sje að hnigna meðal safnaðanna hjer fyrir vestan? Vjer látum hvern mann dæma um það eins og honum sýnist, en ætlumst til að þeir, sem byggja vilja dóma sína á skynsamlegum rökum, taki fyllilega til greina það, sem hjer er sagt.

Til þess nú að gjöra mönnum það enn fremur skiljanlegt, að vjer höfum ekki tekið þetta fram til að hælast um yfir ástandinu í þessu tilliti hjer á meðal vor, skulum vjer nú um leið láta í ljósi hugmynd vora um það, hve tíðar guðsþjónustur ættu að vera í söfnuðunum ef vel væri. Í bæjunum ættu að vera tvær guðsþjónustur í hverri kirkju hvern sunnudag árið um kring, ein guðsþjónusta á hverjum hinna smærri helgidaga, og ein guðsþjónusta þar að auk einhvern virkan dag í hverri viku. Út um landið er ekki unnt, að hafa guðsþjónusturnar svona tíðar. En þar ætti guðsþjónusta að vera flutt á hverjum helgum degi í hverri kirkju, því kristnum mönnum er ætlað að halda sameiginlega guðsþjónustu á hverjum drottins degi. Auk þess ættu guðsþjónustur að vera fluttar á virkum dögum, einkum á föstunni, eins opt og mögulegt er að koma því við. Hjer í landinu er það ekki álitin ofætlun fyrir neinn prest að prjedika þrisvar í viku, tvisvar hvern sunnudag og einu sinni einhvern

virkan dag í vikunni. Það er almenn regla í hverjum bæ víðsvegar um landið. En þá má presturinn ekki hafa mörg önnur störf á hendi Svona ætti það einnig að verða á meðal vor hjer fyrir vestan, og er vonandi að það smáfærist í þá áttina, ef drottinn sendir fleiri verkamenn í víngarðinn.

Samkvæmt ofannefndum skýrslum um messugjörðir í kirkjunum á Íslandi hafa í einu prestakalli landsins verið fluttar 6 guðsþjónustur árið 1891, í öðru 10, í þriðja 14, í fjórða 15, í fimmta 16 o. s. frv. Það eru ekki glæsilegar tölur.

Bezt stendur höfuðborg landsins, Reykjavík, að vígi, með rúmar 60 messur á ári. En hvergi finnst oss það koma hraparlegar fram, hve lítil kirkjuræknin er. Þar er heill hópur af guðfræðingum, eins og áður er bent á. En það er ekki hugsað um, eða sýnist ekki vera hugsað um, að hafa guðsþjónusturnar sem flestar, nota kraptana, sem þar eru til að prjedika, heldur að eins að halda við gömlum vana, flytja eina guðsþjónustu á hverjum helgum degi. Í Reykjavíkur söfnuði munu vera eitthvað á 5. þúsund sálna.

En engum kemur til hugar að vekja máls á þeirri nýbreytni, að fjölga guðsþjónustunum þar í höfuðborginni um rjettan helming, hafa messugjörð hvert sunnudagskvöld. Vjer óttumst, að fyrir allt of mörgum íslenzkum prestum vaki sú regla, að prjedika eins sjaldan og þeir mega, en síður hin reglan, að flytja guðs orð eins opt og þeir mega, — vera sífellt að leita að nýjum tækifærum til að fá að prjedika evangelíum drottins. Og eigi nokkur breyting til batnaðar að verða á hinni hörmulega litlu kirkjurækni í landinu, verður hún að koma frá höfuðstað landsins, þar sem þungamiðja hins andlega lífs er. Hún verður að koma frá prestaskólanum. Prestaskólakennararnir verða að ganga á undan. Vjer bentum nýlega á einn mjög merkan og mikils virtan kennara í guðfræði, prófessor Gísla Johnson í Noregi, sem þann, er gefið hefur hið fegursta dæmi í þessu efni og með prjedikunarákafa sínum skapað nýja hreyfing út um allt land, sem orðið hefur til hinnar mestu blessunar. Látum prestaskólakennarana íslenzku með eigin dæmi kenna lærisveinum sínum þá list, að prjedika guðs orð, ekki sem sjaldnast, heldur sem optast að unnt er. Þá mundu þeir sjá um, að optar en eitt sinn á hverjum sunnudegi yrði guðsþjónustugjörð í Reykjavík-

ur-kirkju. Og þá mundu þeir líka sjá um, að víðar yrði talað guðsorð en í dómkirkjunni einni, og þá mundu þeir vaxa frá þeim hugsunarhætti, sem ekki álítur gjörlegt, að safna fólki saman um prjedikan guðs orðs nema á helgum dögum.

Vjer vonum að bendingar þessar verði bróðurlega þýddar, því að bróðurlega eru þær hugsaðar. Vjer, sem tekizt höfum á hendur hina dýrðlegu köllun að vera orðsins þjónar, verðum að muna eptir því, að það eru prestarnir, sem mest og bezt áhrif hafa á *kirkjurækni* fólksins. Hún skapast og myndast af áhuga prestsins, þótt einn sje opt lengi að byggja upp það, sem annar hefur rifið niður.

## MERKILEG FORNRIT FUNDIN.

Veturinn 1886—87 fundust skinnhandrit nokkur stórmerkileg, sem standa í sambandi við hið helga ritsafn biblíunnar, við gröft á borgarstæði einu fornu í Efra-Egyptalandi. Borgina, er í fyrndinni stóð á þessum stað, kölluðu Grikkir *Panopolis*, en löngu seinna hjet hún — eða ný borg á hennar rústum, *Akhmin*. Frakkneskur maður, *Grebaut* að nafni, er á þeim tíma stóð fyrir forngripasöfnum Egyptalands, hefur heiðurinn af að hafa látið grafa handrit þessi úr jörðu. Og nú á árinu, sem leið, hefur annar frakkneskur vísindamaður, er *Bouriant* heitir, fyrstur allra gefið þau út á prent í Parísarborg. Nokkur ár liðu þannig frá því handritin fundust, þangað til þau voru út gefin, og meðan svo stóð, var fundur þessi nálega öllum ókunnur. En eptir að ritin loks voru útgefin vöktu þau hina mestu athygli vísindamanna um öll lönd.

Hin nýfundnu rit, sem hjer er um að ræða, eru þrjú, eða rjettara sagt brot af þremur ritum. Eitt er svo kölluð *Opinberun Pjeturs*, sem helzt líkist Opinberunarbókinni (eptir Jóhannes postula) í nýja testamentinu. Kirkjufaðirinn *Klemens frá Alexandríu*, sem uppi var á annari öld eptir Krists fæðing, vitnar í rit þetta, en síðan hvarf það og enginn hefur neitt vitað um tilveru þess þangað til nú. Annað ritið er *Pjeturs guðspjall*, og vita menn, að það var á gangi í kristnum söfnuðum á

Sýrlandi á 2. öld, en brátt kom það upp, að ritið var óekta og samið til stuðnings villukenning Dóketa trúarflokks nokkurs, sem kenndi það, að Jesús Kristur hafi ekki haft neinn virkilegan líkama og þannig ekki verið sannur maður. Þriðja ritið er brot af *Enoksbók*, spádómsriti vafasömu að uppruna, sem til var þegar í fyrstu kristni og af ýmsum var haft í talsvert miklum metum. Öll ritin eru frumsamin á grískri tungu.

Enoksbók þessi er meðal annars merkileg fyrir þá sök, að í hana virðist vera vitnað í einu af ritum nýja testamentisins, brjefi Júdasar, þar sem svo segir: „Um þessa spáði og Enok, sjöundi maður frá Adam, segjandi: Sjá, drottinn kemur með sínum heilögu þúsundum til að halda dóm“ o. s. frv. (14. og 15. vers). Að undanteknum fáeinum smábrotum í ritum eins af hinum síðari grísku kirkjufeðrum, hefur Enoksbók síðan í fornöld að eins verið til, svo menn hafi af vitað, í egypzkri þýðing, sem þó var eigi út gefin á prent fyrr en 1853, og sneri útgefandinn henni jafnframt á þýzku, og árið 1882 birtist hún einnig á ensku; og sjest nú á hinu nýfundna gríska handriti af bókinni, að þessi egypska þýðing hefur verið mjög nákvæm.

Um hið svo-kallaða Pjeturs guðspjall er það að segja, að biskup einn í Antíokíu, *Serapion* að nafni, ritaði söfnuði nokkrum þar á Sýrlandi á 2. öld eptir Krists fæðing aðvörunarbrjef gegn lestri rits þessa, sem hann með rjettu segir að fullt sje af villukenningum. Og er þetta hið helzta, er minnzt er á ritið af rithöfundum fornkirkjunnar. Vantrúaðir guðfræðingar á Þýzkalandi hjeldu því um hríð fram um og eptir miðja þessa öld, að hin kirkjulega sögusögn, sem gengið hefur í kirkjunni síðan snemma á fornöld kristninnar, um það, að Markús hafi ritað guðspjall sitt undir umsjón Pjeturs postula, hafi til orðið út af því, að guðspjall Markúsar sje vafalaust ekkert annað en aukinn samsetningur úr hinu svokallaða Pjeturs guðspjalli, sem, þó að það væri týnt, vitanlegt var um, að aldrei hafði verið annað en óekta ýkjurit. Nú sýnir það sig til fulls, er Pjeturs guðspjall þetta aptur er orðið kunnugt, hve fjarri öllum sanni vantrúarstaðhæfing þessi er, því í stað þess að vera sú einfalda frumuppspretta, sem hið stytzta af guðspjöllum nýja testamentisins sje runnið út frá, sýnir það sig að vera býsna margbrotinn samtíningur úr guðspjöllum vorum öllum fjórum. Og

þar sem í því er ýmislegt, sem augsýnilega er tekið úr Jóhannesar guðspjalli, þá er þar með framkomin ein skýlaus sönnun fyrir því, að sú dýrmæta guðspjallsbók hlýtur að vera eins gömul og kirkjan kennir og eptir engan annan höfund en Jóhannes postula. Merkur guðfræðingur einn enskur, sem nýlega hefur ritað um hið apturfundna *apokryfiska* Pjeturs guðspjall, segir líka, að úr þessu dugi engum að vefengja ritvissu Jóhannesar guðspjalls, þar sem fyrir henni sjeu nú jafnvel enn sterkari sannanir en fyrir ritvissu hinna guðspjallanna. Önnur ensk þýðing þessa nýfundna rits eptir prófessor *Bernard* í Dublin á Írlandi birtist fyrir skömmu (24. des.) í blaðinu *Sunday School Times*, sem út kemur í Philadelphia, og fylgir þar með ritgjörð eptir þýðandann, þar sem hann meðal annars sýnir, hvað hinn óþekkti höfundur hins apokryfiska guðspjalls hefur tekið til láns úr hverju einstöku guðspjalli hins nýja testamentis.

*J. Bj.*

Við þetta bætist enn einn hinn merkilegasti fundur, sem gjörður hefur verið síðan *Tischendorf* fann hið merkilega handrit af biblíunni í Sínaí-klaustrinu árið 1859. það er handrit af hinni elztu sýrlenzku þýðingu nýja testamentisins, sem fundizt hefur, og það af konu einni. Menn vita enn þá ekki, hvort handrit þetta hefur inni að halda allt nýja testamentið eða ekki. En það hefur að minnsta kosti öll guðspjöllin í heilu lagi. það er mjög örðugt aflestrar, eins og búast má við, þar sem það er eitt af hinum svo kölluðu *palimpsest* handritum. En svo eru handrit þau nefnd, þar sem aðrar bækur hafa verið ritaðar seinna á öldum ofan í eitthvert frumhandrit, eins og opt var gjört, eptir að pergamentið fór að verða svo sjaldgæft.— Sú sýrlenzka þýðing, sem mönnum var áður kunn, nefndist *Peschitto*; hingað til hefur hún verið álitin lang-merkasta þýðingin, sem til hefur verið af nýja testamentinu. En menn hafa vitað, að til hefur verið önnur miklu eldri sýrlenzk þýðing, sem gjörð hafi verið á 2. öld; af henni hafa verið til fáein brot og annað ekki. það er nú þessi elzta sýrlenzka þýðing, sem fundizt hefur, og er vonandi, að hún verði innan skamms gefin út.

þannig er sífellt verið að finna ný og ný handrit og er ekki unnt að segja, hvað mönnum kann að takast enn að finna.

Allir þessir merkilegu nýju fundir styrkja ritvissu hinna helgu bóka og hrinda mótbárum vantrúarinnar gegn hinu helga bókasafni, einni eptir aðra. Á fáum árum hefur fundizt guðspjalla *harmonian* eptir *Tatian*, Kenning hinna tólf postula, varnarrit *Aristidesar*, auk rita þeirra, sem hjer að ofan eru nefnd

## „HANN SAGÐI ÞAÐ SJÁLFUR“.

Aprílnr. „Kbls.“ hefur meðferðis grein eptir ritstjórann með fyrirsögninni: „Kenningin um eilífa fordæming“. Ekki er það svo að skilja samt, að ritstjórinn hafi fundið ástæðu til að ræða það mál frekar. Þar á móti finnur hann ástæðu til að kvarta undan ummælum nokkrum, sem fylgdu grein síra Lárusar Halldórssonar um þetta efni, er birtist í októberbl. „Sam.“ Þar er það talið raunalegt frá sjónarmiði presta þeirra á Íslandi, er halda vilja fast við kenning kirkjunnar og biblíunnar um þetta atriði, ekki síður en frá sjónarmiði sjálfra vor, „að í Kbl. skuli engin raust hafa fengið að láta til sín heyra, til að mótmæla þeirri stefnu, er þar hefur verið haldið fram“.

Ritstjóri „Kbls.“ segir, að sjer hafi komið þessi athugasemd mín óvænt, þar sem hann hafi tjáð mjer brjeflega, um leið og hann sendi grein síra L., að hann ætti von á „hugvekju í Kbl., sem færi í líka átt og þessi grein og sjer þætti meiri slægurinn í“. Seinna hafi hann skrifað mjer, að jeg skyldi senda honum um hæl aptur greinina til upptöku, kæmi hún eigi í „Sam.“, þar sem vonin um hitt hefði brugðizt sjer.

Bæði brjefin (ds. 8. sept. og 2. okt.) hef jeg nú fyrir mjer. Jeg er nú til þess neyddur að láta brjef þessi rjettlæta mig og verð því að setja hjer það úr þeim, er verða má þessu efni til skýringar. Jeg veit, að hinn heiðraði brjefritari tekur mjer það ekki illa upp; hann hefur sjálfur knúð mig til þess.

8. sept. ritar síra Þórhallur: —

„Jeg sendi yður grein frá síra Lárusi Halldórssyni um útskúfunar kenninguna eptir fyrirmælum hans, nl. ef Kbl. tæki ekki. Það er lang-efnismesta greinin, sem til mín hefur borizt um það efni, og jeg hefði tekið hana, hefði hún komið um ára-

mótin. Jeg hef neitað upptöku greinum frá báðum hliðum. ...Einustu undantekningu gjöri jeg með fyrirlestur síra Helga, sem hann hjelt á synodus: „Hann sagði það sjálfur". Fyrirlesturinn var í raun rjettri óbein polemik[1] gegn Kbl. út af útskúfunarkenningunni, þótt Kbl. væri þar aldrei nefnt á nafn".

Af þessum brjefkafla dró jeg nú þá eðlilegu ályktun, að ritstjóri Kbls. hefði ekki viljað taka grein síra L. í blaðið. Ef hún hefði komið svo sem einu missiri fyrr, hefði hann ef til vill tekið hana. Hann setur hana í flokk með ýmsum greinum sama efnis, sem honum hafa borizt. Hann hefur látið þær allar lúta sömu reglunni, — að taka þær ekki. Frá þessari reglu segist hann ætla að gjöra eina einustu undantekning með fyrirlestur síra Helga Hálfdánarsonar. Það er samkvæmt þessu ekki fyrirlestursins vegna, sem hann neitar að taka grein síra L., heldur vegna þess að hún kom einu missiri of seint og af því að honum hefur fundizt, að hún verða að lúta sömu reglunni og fylgt hafði verið í öðrum tilfellum. Svona skildi jeg að minnsta kosti brjefið. — En í hverju er jeg þá eiginlega sekur? Jeg hefði átt að segja frá hinum væntanlega fyrirlestri, segir Kbl. Því gjörði jeg það ekki? Af því að sama brjefið gaf í skyn, að það væri ekki alveg víst að hann kæmi. Fyrirlesturinn hefði ef til vill aldrei verið skrifaður. Það var líka fremur lítil meining í að senda blaðagrein í aðra heimsálfu vegna annarar, sem enn var ókomin, ef tilgangurinn hefði verið nokkur annar en sá að neita henni hreint og beint upptöku. Mundi grein síra Lárusar ekki hafa verið vísað frá, þótt engin von hefði verið um fyrirlesturinn, úr því hún kom svona seint?

Grunur sá, sem síra Þórhallur hafði þannig sjálfur gefið mjer, um að fyrirlesturinn mundi ef til vill ekki koma, varð orsök til þess, að jeg þagði um hann, því að það voru gleðitíðindi fyrir sjálfan mig og lesendur „Sam.", sem jeg annars hafði enga ástæðu til að fara með í neina launkofa.

Grein sjera L. var sem sagt prentuð í oktoberbl. „Sam." Ummælin, sem ritstj. „Kbls". kvartar undan, segja að eins, að það sje raunalegt, að í „Kbl." skuli engin raust *hafa fengið* að láta til sín heyra o. s. frv. Er nú ekki þetta fullkomlega satt? *Hafði* nokkur raust *fengið* að láta til sín heyra til að andmæla

1) Ágreiningsræða.

Kbl. fram að þeim tíma? Ekki svo jeg viti. Höfðu ekki ýmsir beðið um orðið? Jú, svo segir ritstjórinn sjálfur, og einn meðal þeirra síra Lárus. En öllum hafði verið neitað. það er þetta, sem mjer fannst raunalegt. Um það, sem kynni að verða í framtíðinni, talaði jeg ekkert, benti að eins á regluna, sem fylgt hefði verið þessa 10 mánuði síðan ágreiningsumræður þessar hófust. Jeg skyldi hafa verið fljótur til að lýsa yfir ánægju minni, þegar jeg hefði sjeð gagnstæða reglu tekna upp. En því miður hef jeg ekki fengið tækifæri til þess fram á þennan dag. Mjer er því alveg óskiljanlegt, hvers vegna ritstjóri „Kbl." fór að bera sig upp um þetta eða finnast, að jeg vera hjer í nokkurri sök.

þegar októberbl. „Sam." var komið út með grein síra Lárusar, fjekk jeg fáeinar línur frá ritstj. „Kbls.", þar sem hann segir: „Ef grein síra Lárusar kemst ekki í „Sam.", þá sendið mjer hana, hún á þó sannarlega skilið að prentast. Jeg er nl. hræddur um, að jeg fái ekki fyrirlestur sjera Helga og þá get jeg tekið grein síra L." Jeg brosti. Fyrst of seint var að taka hana í ágúst, ætli það yrði þá ekki seint í janúar næsta ár, hugsaði jeg með mjer. Svo er öldungis ómögulegt, að síra þórhalli hafi komið til hugar, að „Sam." mundi ekki taka opnum örmum við grein síra L. Fyrsti maðurinn í kirkjunni á Íslandi, sem tekur í strenginn með „Sam." gegn „Kbl.", skyldi ekki hafa komizt að í „Sam.", þegar hann hafði verið gjörður apturreka af „Kbl."! Nei, þessháttar kórvillum gjörum við okkur þó ekki seka í hjer fyrir vestan. Mjer kom því ekki til hugar að gjöra neina „leiðrjetting". Hvað átti jeg líka að leiðrjetta?

Mig furðaði stórlega á þessari grein í „Kbl". Jeg átti von á öllu öðru. Jeg átti von á nýju „innleggi", nýjum gögnum, nýrri málsvörn. Ummælum mínum var eðlilegt, að „Kbl." hefði svarað á þá leið, að það hefði ætlað að flytja lesendum sínum fyrirlestur síra Helga, en því miður hefði það ekki getað látið sig gjöra. En þegar vonin var úti um þennan fyrirlestur, hefði mátt taka eitthvað af greinum þeim, sem áður hafði verið synjað upptöku og tekið höfðu í sama strenginn og þeir síra Lárus og síra Helgi. En það virðist hafa gleymzt.

Til þess enginn misskilji orð mín, skal jeg taka það fram, að jeg er sannfærður um, að ritstjóri „Kbls." hefur átt von á fyrirlestri síra Helga og hefur ætlað sjer að taka hann; það er ekki

að neinu leyti honum að kenna, að sá fyrirlestur hefur ekki komið fyrir almenningssjónir, heldur eru til þess aðrar ástæður. Um þetta ágreinings-atriði hefði öllum verið kært að heyra síra Helga tala, — hann, sem um svo langan tíma hefur borið ægishjálm af öðrum íslenzkum guðfræðingum. En öllum er kunnugt, hvernig hann lítur á þetta mál. Hann fyllir þeirra flokk, sem segja, þegar verið er að ræða um eilífa fordæming: „Hann (þ. e. frelsari vor Jesús Kristur) sagði það sjálfur.“ það er honum nóg. þeir einir vita líka fótum sínum forráð í trúarlegu tilliti, er sagt geta við hvert atriði játningar sinnar: „Hann sagði það sjálfur!“ Jeg tek það fram sem áminning til sjálfs mín ekki síður en annara.

*Fr. J. Bergmann.*

## *S Á L M U R.*

Eptir síra *Lárus Halldórsson.*

Jeg á þá trú, sem þrótt í þrautum vekur
og þrek, að berjast synd og dauða mót,
og alla burtu hræðslu skugga hrekur,
og hjarta mínu veitir fulla bót.
þá trú mjer gafstu, Jesú góði;
þú gróðursettir hana' á jörð með þínu blóði.

Jeg á þá von, sem von er allri meiri,
og vekja fögnuð má í brjósti mjer,
að eptir árin færri eða fleiri
jeg fái hvíld með ljóssins helgum her.
þá von mjer gafstu, son guðs sæti,
þú syndugs manns og engla æðsta eptirlæti.

Jeg á þann kærleik, aflið lífsins mesta,
sem eitt fær sigrað dauðans sterka mátt,
á himni' og jörðu hlutskiptið hið bezta,
sem helgar, blessar allt með friði' og sátt.
Hjer Jesú Krists um kærleik ræðir,
er kærleikann með trú og von í hjörtum glæðir.

Jeg á þann frið, sem ekkert raskað getur;
hann innst í sálu hefur bústað sinn.
Þann frið mitt hjarta mest af öllu metur,
því, mildi drottinn, það er friður þinn.
Af kærleik friðinn Kristur gefur;
með kærleik, trú og von og friði hann oss vefur.

4. jan. 1893.

## ÞÝÐING JESÚ UPPRISU.

PRÉDIKAN

út af Lúk. 24, 13—35, flutt í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg síðast liðið páskadagskvöld (2. Apr.) af ritstjóra „Sam.", J. Bj. *)

Páskahátíðin er komin, og með henni oss öllum enn einu sinni á hinni jarðnesku æfi vorri upprunninn hinn dýrðlegasti, bjartasti, fagnaðarríkasti dagr, sem til er á árinu. Hann er svo bjartr, þessi hátíðardagr, að þó himininn á þeim degi eðlilega, eins og á öllum öðrum dögum, geti á þeim eða þeim staðnum verið hulinn þykkum skýflóka, allt loftið alskýjað, þá geta samt augu vor horft í gegn um hina skýjuðu hvelfing, horft út fyrir gjörvalla heimsvíðáttuna, burt úr tímanum og inn í hina endalausu eilífð, og þar sigrihrósandi og vonglaðir skoðað guðs dýrð. Hann er svo einkennilega bjartr, þessi blessaði drottins dagr, að þó að kvöldsett verði á honum, eins og öllum öðrum dögum, og nóttin að honum útlíðanda, eins og á hverjum öðrum ársins sólarhring, breiði sig út yfir láð og lög, þá er vanalegr, tilsettr tími er kominn, þá getr mannsaugað eins fyrir því horft út fyrir öll jarðnesk endimörk og í tilbeiðslu og lofsyngjanda þakklæti séð guð almáttugan hátt, hátt uppi í hans eilífu dýrð. Hún

*) Eg var af ýmsum margbeðinn að láta prédikan þessa, eftir að hún var nýflutt, koma út á prent í „Sam." eða öðru vísi. Eg ætlaði þó ekki að verða við þessari áskoran, þangað til nú, er eg heilsufars míns vegna hefi eigi ástæður til að senda neitt í blaðið, er sérstaklega eðr beinlínis sé fyrir það ritað. Svo beiðendrnir fá þá vilja sinn. Gefi drottinn, að þeir og aðrir lesendr „Sameiningarinnar" fái lesið ræðuna sér til trúarlegrar uppbyggingar.

Park River, N. Dakota, 5. Jún. 1893.

*Jón Bjarnason.*

er svo einkennileg og einstakleg, birtan, sem skín út frá páskahátíðinni og sem guð hefir klætt hana í eins og annað fat, að fyrir þá birtu getr jafnvel hin dimma nótt í náttúrunni og mannlífinu orðið sem dagr, ljómandi sólskinsdagr. Og það er meira að segja fyrir ljósið, er leiftrar út frá páskahátíðinni, einatt auðveldara frá myrkum mannlífsstöðvum, úr dimmu jarðnesku náttmyrkrinu, að sjá og skoða hina guðlegu dýrð inni í eilífðinni, heldr en um hádag eða þá er ekki ber neinn skugga yfir jarðlífstilveruna, þar sem maðr er staddr. Það er andleg birta, guðs eigin kærleiksbirta, sem páskahátíðin æfinlega kemr með, og oss er aldrei eins auðgefið að taka eftir henni eins og eftir að degi er tekið að halla, nóttin tekin til að umkringja mann, og hið náttúrlega sólarljós þannig ekki að neinu leyti getr villt fyrir. Það er mannssálinni ósjálfrátt að fælast myrkrið í náttúrunni. Litlu blessuð börnin fara að gráta, ef þau eru skilin ein eftir í myrkrinu. Og þó er oss öllum hitt enn meira kunnugt, að þá er nótt verðr í voru eigin lífi, þá er mótlæti og kross steðjar að, sál vor stödd mitt uppi í sinni píslarsögu, vill þessi sama vesalings sál fyllast ótta og angist. En samt stendr hitt eins guðlega og gleðilega fast fyrir því, að aldrei tökum vér eins vel eftir hinu bjarta fagnaðarefni, sem ár og síð og alla tíð streymir út frá páskahátíðinni, eins og einmitt á slíkum dimmum mótlætis-nóttum í vorri eigin æfisögu. Eða ef einhverjir í hópi minni núverandi tilheyrenda hafa ekki sjálfir enn upplifað neina þvílíka nótt, ekki enn sjálfir neitt verulega haft að segja af mótlæti, þjáningum eða sorg, þá, til þess að ganga úr skugga um það, sem eg sagði, líti þeir í kring um sig og athugi, hvort það muni ekki fremr hafa verið á hinum dimmu en björtu tíðum æfinnar, fremr í mótlætinu en í meðlætinu, að þeir menn, sem nú hafa næmast auga fyrir hinni himnesku dýrð guðs, lærðu að meta og elska hið yfirnáttúrlega ljós, sem páskahátíðinni tilheyrir og er henni æfinlega samferða. Gangið til allra þeirra manna, sem þér þekkið bezt kristna, mest með hugann á himnum, næst guði í gjörvöllu lífi sínu, og munuð þér sannfærast um, að það var langhelzt á hinni dimmu raunatíð þrenginganna, að birtan frá páskaevangelíi kristilegrar kirkju skein inn í sálir þeirra með sínum fullkomna guðlega ljóma. — Fjarri sé því, að eg með allan minn margreynda veikleik, að því er til

